# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

18. ÁRG. WINNIPEG, ÁGÚST 1903. NR. 6.

## Út af „vísindunum" enn.

Herra Haraldr Níelsson kemr enn með grein í „Verði ljós!" — Júní-blaðinu — á móti mér. Hann leitast þar við að svara grein minni um „Þekking og hógværð", sem stendr í Marz-blaði „Sam." Eg fæ ekki betr séð en að það svar hans hafi algjörlega misheppnazt, líklega helzt fyrir þá sök, að hann hefir þar tekið pennann í reiði. Manni dettr þar ósjálfrátt í hug hinn alkunni íslenzki orðskviðr: „Sannleikanum verðr hver sárreiðastr." Eitt er víst, að það tekst engum að sanna „hógværð" sína með öðrum eins ritmáta og hr. H. N. hefir viðhaft í þessu svari sínu. Og það er allsendis ólíklegt, að slíkar deilugreinir mæli með biblíu-,kritíkinni' og guðfræðinni nýju hjá kristnum safnaðalýð almennt. Mér persónulega er í þessari grein hr. Haralds brugðið um lævísi, kærleiksleysi, skort á umburðarlyndi, þekkingarleysi, leti, þrályndi, drottnunargirnd, ófrjálslyndi, ofrkapp. Þetta er nú heilmikið syndaregistr. En af því að það er alls ekki rökstutt í greininni, þá get eg látið það liggja mér í léttu rúmi. Eg er alvanr slíkum brigzlum bæði frá kirkjulegum og ókirkjulegum andstœðingum. En hr. Haraldi má virða til vorkunnar, þótt hann sé hörundsár og geti ekki í ofrhita geðshrœringanna stillt orð sín, því hann er enn ungr maðr, gengr enn með lærdómskreddum þeim, sem inn í hann hafa komizt á skólaárunum, ómeltum eða óprófuðum í lífinu, og hefir nálega ekki fyrr en nú orðið fyrir opinberum mótmælum.

Sakargiftirnar persónulegu í þessari deilugrein leiði eg því hjá mér. Það er svo afar hætt við því, að með því að fara út í þá sálma leiðist hugir manna algjörlega burt frá aðal-efninu.

En það er sumt annað í svari hr. Haralds, sem óhœfilegt væri að eg gengi þegjandi fram hjá.

Hann segir, að „Sameiningin" eða eg hafi ekki hrundið röksemdum þeim, sem séra Jón Helgason hefir borið fram, fyrir hinum nýju kenningum um uppruna gamla testamentisins. Það er að því leyti satt, að það hefir ekki í blaði þessu, svo teljanda sé, nein tilraun verið gjörð til þess að hrekja þær kenningar á *vísindalegan* hátt. En þar á móti hefir af vorri hálfu all-skýrt verið sýnt fram á, hve háskalega nærri þær kenningar gangi hjartanu í hinni kristnu trú vorri, hve hætt sé við að almenningr missi algjörlega trúna á mannkynsfrelsarann Jesúm, ef þær skoðanir á biblíunni skyldi verða ofan á í kirkjunni. Líka hefir af oss verið á það bent, að hinum kirkjulegu vísindamönnum hafi marg-oft stórvægilega skjátlazt í ályktunum sínum og allar líkur fyrir því, að það, sem nú er kallað „niðrstaða hinna vísindalegu rannsókna" viðvíkjandi ritum gamla testamentisins og reynt að prédika inn í lýð kirkjunnar eins og algildan guðlegan sannleika, verði innan skamms talið markleysa; enn fremr, að þessum nýju kenningum sé sterklega mótmælt af mörgum vísindalega menntuðum guðfrœðingum nútíðarinnar í öllum áttum kristninnar. Meira var naumast heimtanda af oss, ef nokkurrar sanngirni skyldi gætt. Eg játa það hiklaust, að eg er því ekki vaxinn, að hrekja þær mótbárur gegn hinum guðlega uppruna hinna helgu rita, sem hér er um að rœða, á vísindalegan hátt. En þótt eg væri það, myndi eg engan tíma hafa til þess, og ekkert rúm fyrir slíkt í þessu litla blaði. Það hafa líka verið bornar fram mótbárur í nafni vísindanna gegn hinum guðlega uppruna Jesú Krists. Og þeir, sem það gjöra, heimta þær mótbárur hraktar á vísindalegan hátt. En það hefir enn aldrei tekizt og mun aldrei takast. Og þó höfum vér kristnir menn gilda ástœðu til að vefengja allar slíkar kenningar, hversu vísindalega sem frá þeim er gengið, og dœma

þær helber ósannindi. Ef hr. Haraldr Níelsson ímyndar sér, að hann með vísindalegum rökum geti haldið vörn uppi fyrir kristindómsopinberaninni, þá er það blátt áfram barnaskapr. En þótt hann ekki geti það, þá ætti hann þó eins fyrir því að geta haldið. því hiklaust fram, sem eg líka tel víst að hann gjöri, að kristindómrinn sé sannleikr. Þegar um málefni trúarinnar er að rœða, þá koma til greina miklu sterkari sannanir en þær, er vísindin hafa yfir að ráða.

Það stendr líkt á fyrir oss nú í þessu deilumáli út af biblíu-,kritíkinni' nýju eins og forðum í sögunni um hólmgöngu þeirra Davíðs og Golíats. Sál konungr taldi það óhjákvæmilega nauðsynlegt og alveg sjálfsagt, að Davíð væri á líkan hátt hertýgjaðr og Fílistea-kappinn áðr en hann hætti sér út á móti honum. Og svo fœrði hann hann í sinn eigin kyrtil, setti eirhjálm á höfuð hans og lét hann fara í brynju. En Davíð fann það undir eins, að þessi útbúningr myndi verða sér langt um of þungr og að eins til hindrunar. Hann var öllum slíkum flíkum óvanr og kunni ekki að bera þær. Þess vegna kastaði hann þeim frá sér og gekk fram á völlinn til einvígisins eins og honum var eðlilegast að vera, snöggklæddr, berskjaldaðr, hlífalaus, — að eins með smalaprikið sitt eða göngustafinn og slönguna ásamt með smásteinum fáeinum, sem hann í snatri tíndi upp úr lœkjarfarveginum hjá hólmgöngusviðinu. Og þetta dugði. Hann skundaði fram á völlinn í drottins nafni, slöngvaði og hœfði risann í ennið, svo að hann þurfti ekki meira. Biblíu-,kritík' sú, sem séra Jón Helgason hefir verið að prédika fyrir löndum sínum og hr. Haraldr trúir á, samgildir Golíat gamla. Það er með ópi og eggjan skorað á oss að ganga á hólm á móti þeim risa. En jafnframt er heimtað, að vér beitum samskonar vopnum og andstœðingrinn, lögum oss að öllu leyti eftir hans vopnaburði. Það er að segja: Hr. Haraldr og þeir félagar vilja troða upp á oss hinum „vísindalegu" verjum sínum í baráttu vorri á móti ,kritíkinni', alveg eins og Sál tróð herklæðum þeim, er hann trúði helzt á, upp á Davíð. En eg læt engu slíku upp á mig troða. Þessi vísindalegu vopn eru ekki við mitt hœfi. Eg er mér þess meðvitandi, að eg kann ekki að

bera þau eða beita þeim. Og svo fleygi eg þeim. En eg legg ekki á flótta fyrir því. Eg treysti guði. Og samfara því trausti hefi eg frá honum það vopn fyrir mig að bera, sem samgildir slöngu Davíðs. En það vopn er orð drottins sjálfs, hinn guðinnblásni boðskapr heilagrar ritningar, sem ‚kritíkin' er nú að óvirða, rýra og reyna til að gjöra að engu. Þannig útbúinn áræði eg að ganga fram á móti Golíat. Og þó að eg sé ekki eins hœfinn og Davíð, ekki neitt líkt því, þá er það hiklaus sannfœring mín, að kirkju Krists auðnast að leggja risa þennan að velli, en að eins með því sérstaka vopni, sem nú hefir verið bent á. Hann sjálfr, drottinn Jesús, bar aldrei neitt annað vopn fyrir sig í hólmgöngu þeirri, sem hann gekk út í á dögum hinnar jarðnesku holdsvistar sinnar gegn fulltrúum vantrúarinnar og hjátrúarinnar meðal Gyðinga á þeirri öld. Og hann hefir ekkert annað vopn fengið lærisveinum sínum í hendr til varnar og sóknar í samskonar baráttu þeirra hér í heimi.

Hr. H. N. kveðr það ósatt vera, að hinir íslenzku talsmenn ‚kritíkarinnar' vilji, eins og eg sagði, þegja mótmæli þau öll í hel, sem komið hafa fram víðsvegar um lönd gegn hinum nýju skoðunum. „Í því efni nœgir"—segir hann—„að vitna í greinina *Kirkjuleg barátta í Norvegi* hér í blaðinu"(„V.l.!"). Þar er átt við ritgjörð, sem „Verði ljós!" hefir í síðustu tíð haft meðferðis um deiluna meðal Norðmanna út af ‚kritíkinni' og nýju guðfrœðinni. En sú deila brauzt í sínum algleymingi út, þá er Heuch biskup tók til máls opinberlega í bókinni „Móti straumnum", sem lesendr „Sameiningarinnar" kannast vel við. Því þýddir kaflar úr því riti birtust hér í blaðinu í vetr, sem leið. En upphaf ritgjörðarinnar í „Verði ljós!" um þessa norsku trúmáladeilu birtist ekki fyrr en í Apríl, mánuði seinna en sú grein mín í „Sam.", sem hr. H. N. er nú að svara. Eg gat auðvitað ekki tekið tillit til þess, sem talsmenn ‚kritíkarinnar' á Íslandi síðar meir kynni að láta til sín heyra, heldr að eins til þess, hvernig þeir höfðu komið fram í liðnu tíðinni. Og á þeim tíma, er eg reit grein mína, lá allsendis ekkert fyrir frá þeim félögum, er benti til annars en að þeir vildi þegja öll slík mótmæli í hel. Hins

vegar gat eg þess um leið, að vafalaust myndi það nú ekki lengr takast. Og þessi orð mín hafa rætzt. ,,Verði ljós!" neyddist á endanum til að láta það uppi, að mótmælin gegn ,kritíkinni' og nýju guðfrœðinni innan lútersku kirkjunnar úti í löndum eru býsna sterk og koma frá ýmsum ágætustu og frægustu sonum hennar.

En ,,Verði ljós!" hefir gjört meira en að láta þetta uppi. Í niðrlagi áminnztrar ritgjörðar í því blaði um hina kirkjulegu baráttu í Norvegi stendr þetta: ,,Hvor stefnan (þ. e.: gamla eða nýja stefnan í guðfrœðinni) beri sigr úr býtum — um það skal engu spáð. Það má vel vera, að hvorug sigri hina og þessar tvær stefnur haldi áfram að standa hvor á móti annarri um langan aldr. Og það er ekki ólíklegt, að menn öðlist skilning á því með tímanum, að gott sé að stefnurnar sé tvær í kirkjunni, — — — — önnur til þess að vinna að því, að kirkjan fylgist með tímanum, en hin til þess að varna því, að kirkjan víki út frá hinum eilífa grundvelli sínum." — Hér er því í rauninni játað, að mótmælin gegn stefnu þeirri í guðfrœðinni, sem ,,Verði ljós!" hefir aðhyllzt, sé og hafi verið í mesta máta nauðsynleg. Þetta kalla eg framför frá því, sem áðr var í þeirri átt. Slæmt er, að kirkjan fylgist ekki með tímanum, en margfalt verra er þó, að hún víki út frá hinum eilífa grundvelli sínum. Hr. H. N. segir reyndar í þessari síðustu grein sinni á móti mér: ,,Í mínum augum er enginn efi á því, að nýju skoðanirnar í biblíurannsóknamálinu munu bera hærra hlut, því að þær fara með sannleikann." En eg tek það ekki alveg bókstaflega, enda vona eg, að honum auðnist síðar betr en enn er orðið að sjá, hve hætt er við því, að sú stefna í guðfrœðinni, sem hann að undanförnu hefir talið hina einu réttu, verði mörgum óviðráðanleg freisting til helberrar vantrúar og kristindómsafneitunar.

Í vetr um nýársleyti bar hr. H. N. þá ósk fram, að eg á þessu ári mætti gjöra bragarbót, og virtust þau orð hans að eins verða skilin á einn veg, þannig, að hann óskaði, að eg einhvern tíma á næstu tólf mánuðum snerist inn á þá skoðan biblíunni og biblíu-,kritíkinni' viðvíkjandi, sem hann telr óyggjanda sannleik, og fœri að berjast fyrir þeirri skoðan í

rœðu og riti. Þá tók eg það fram, að ef eg gjörði það, þá trœði eg undir fótunum aðal-greinina í grundvallarlögum kirkjufélags vors, þá grein, sem fastákveðið er um að aldrei verði breytt. En sú grein hljóðar svo :

,,Kirkjufélagið trúir því, að heilög ritning — það er: hinar kanónisku bœkr gamla og nýja testamentisins — sé guðs opinberaða orð og hin eina sanna og áreiðanlega regla fyrir trú manna, kenning og lífi."

Og í mesta bróðerni spurði eg hr. H., eftir að hafa bent honum á þetta óbreytanlega ákvæði í grundvallarlögum vorum, hvort hann, þegar hann hugsaði sig vel um, vildi halda óskinni um bragarbótina áfram. Hálfvegis hafði eg von um, að honum myndi skiljast fyrir hjálp þá, er þar veittist honum, að þessi ósk hans hefði verið lítt hugsuð og illa frambærileg. En sú veika von mín hefir því miðr orðið að engu. Því hiklaust segist hann þrátt fyrir þessa bending mína vilja halda ósk sinni um það, er hann kallaði bragarbót af minni hálfu, áfram. En hvernig gjörir hann nú grein fyrir áframhaldi óskarinnar? Hvernig rökstyðr hann það, að eg með góðri samvizku og án þess að svíkja kirkjufélag mitt í tryggðum gæti í því máli, sem nú er um að rœða, skift um skoðan? Hann gjörir það með því að lýsa yfir því, að hann — jafnvel hann — trúi því líka, að heilög ritning sé guðs opinberaða orð. Og óhræddr kveðst hann mundu geta skrifað undir þessa sérstöku grein í grundvallarlögum ísl. kirkjufélagsins hér. Þó hefir hann nú, þrátt fyrir þessa játning sína, veðr af því, að greinin sé ekki alveg eins orðuð og ætti að vera, því hann kýs heldr, að hún hljóðaði á þessa leið: ,,Kirkjufélagið trúir því, að heilög ritning — — — — *hafi að geyma* guðs opinberaða orð." Og hann staðhœfir, að vér allir prestarnir í vestríslenzka kirkjufélaginu leggjum engan annan eða meiri skilning í greinina en þennan. ,,Því að margt af því, sem í gamla testamentinu er", — segir hann —,,kemr þeim ekki til hugar að telja guðs orð." Og hann spyr: ,,Hvernig geta þeir t. a. m. í alvöru haldið því fram, að frásögurnar um alla bardagana í Jósúabók, Dómarabókinni og Samúelsbókunum — svo eg að eins nefni þessi ritin — sé guðs orð?" Og enn

fremr segir hann: ,,Það væri blátt áfram hlœgileg fjarstœða að láta sér detta í hug, að þær (þessar bœkr) væri guðs opinberaða orð frá upphafi til enda.''— Hér sést, hve mikið er gefanda fyrir þá yfirlýsing hr. Haralds, að hann trúi því, að ritningin í heild sinni sé guðs opinberaða orð og hann gæti því óhræddr skrifað undir hina umrœddu grein í grundvallarlögum kirkjufélags vors. Hann sýnir það hér nokkurn veginn eins skýrt og verða má, að það er sitt hvað að halda því fram, að biblían — gamla testamentið og nýja testamentið — *sé* guðs orð, og hinu, að hún *hafi að geyma* guðs orð. Enda hefir þess mikla greinarmunar ávallt gætt í sögu kristinnar kirkju á öllum öldum. Það er og hefir jafnan verið eitt stórvægilegt atriði í kristilegum rétttrúnaði kirkjulýðsins, bæði presta og leikmanna, að ritningin *sé* í heild sinni guðs orð, þar sem skynsemistrúin svo nefnda hefir aftr á móti sí og æ haldið því fram, að ritningin *hafi* að eins guðs orð *að geyma*, sem auðvitað má líka segja um nálega óteljandi aðrar bœkr. Og svo mikið ætti hr. H. N. að geta skilið, að grein þessi í grundvallarlögum vorum muni ekki út í bláinn vera orðuð eins og er, heldr af ásettu ráði, í þeím tilgangi að varna því, að hinn síðarnefndi skilningr á guðs orði, skynsemistrúarskoðanin á biblíunni, geti í kirkjufélagi voru komizt að eða náð sér þar niðri. Hann ætti og sömuleiðis að trúa því, þegar honum er sagt það, þótt hann hafi ekki vitað það áðr, að samskonar ákvæði stendr í grundvallarlögum allra lúterskra kirkjufélaga í heimsálfu þessari og víðar og víðar. Í þeirri grein höfum vér sannarlega fylgzt með tímanum.

En hr. H. N. telr það hinn mesta barnaskap, að setja það í grundvallarlög nokkurs kirkjufélags, að einhverri grein þeirra megi aldrei breyta. Er þá ekkert í efni trúar vorrar, ekkert í kristindómsopinberaninni, sem vér, lærisveinar drottins Jesú, vitum með vissu um að stendr stöðugt, óhagganlegt og óbreytilegt, hvernig sem veröldin veltist? Höfum vér ekki guðlega trygging fyrir því, að Jesús Kristr hafi sagt satt, þegar hann kom með þessa yfirlýsing: ,,Himinn og jörð munu líða undir lok, en mín orð skulu ekki undir lok líða''? Og ef slík trygging er til, hví skyld-

um vér þá ekki hafa leyfi, nei, meira en leyfi, heilaga skyldu, til þess að taka það skýrt fram í grundvallarlögum kirkju vorrar, að sá félagskapr sé guðlegs uppruna og hafi þann sannleik meðferðis, sem aldrei verði breytt? Það er til þess að varna því, að kirkjufélögin villist út af hinum eilífa grundvelli sáluhjálparsannleikans, að þau í Jesú nafni hafa ákvæðið óbreytanlega um guðs orð í lögum sínum.

En er ekki slíkt ófrelsi? Nei. Það mætti kalla það ófrelsi, ef allir væri neyddir til að vera í þannig löguðum kirkjulegum félagskap, án alls tillits til þess, hvort slík ákvæði trúnni eða guðs orði viðvíkjandi eru samkvæmt sannfœring þeirra eða ekki. En slík nauðung er ekki fyrir hendi. Menn geta látið vera að taka sér andlegt heimili í kirkju Krists. Landar vorir hér geta verið fyrir utan kirkjufélagið lúterska íslenzka. Þeir hafa fullt frelsi til að halla sér andlega að hvar sem þeim þóknast. En þeir, sem ganga í lög með oss, hafa að sjálfsögðu með því spori skuldbundið sig til að fylgja oss að málum og styðja trúarstefnu kirkjufélagsins. Breytist sannfœring einhverra síðar, svo að hún fái eigi samrímzt trúarjátning eða trúarskoðan kirkjufélagsins, þá hafa þeir fullt frelsi til að hverfa burt úr þeim félagskap. Og það ætti þeir að gjöra, og það hafa líka ýmsir gjört í liðinni tíð. En að menn standi að nafninu í einhverjum söfnuði þess með annarlegri trúarskoðan og sé að reyna til þess að koma henni þar að, það er blátt áfram óhœfa. Og lítt afsakanlegt er það af lúterskum guðfrœðingi að vilja styðja annað eins háttalag. Því miðr hafa eigi svo fáir af kennimönnum kirkjunnar á Íslandi, einkum á síðasta mannsaldri, viljað hafa fullt frelsi til þess að halda fram ýmsum lærdómum, sem með engu móti fá samrímzt lúterskri eða evangeliskri trúarjátning, enda hiklaust tekið sér það leyfi. Ekki hvað sízt fyrir þá sök hefir trúarmeðvitund íslenzkrar alþýðu svo stórkostlega ruglazt. Og þeim ruglingi er það samfara, að svo sorglega lítið er til af löghlýðni hjá mörgum löndum vorum við félagskap þann, er þeir tilheyra, einkum hinn kirkjulega félagskap, hér í frjálsu landi.

Þó skjátlast hr. Haraldi Níelssyni meir en lítið, er hann

hyggr almenningsálitið í hinu lúterska kirkjufélagi Vestr-Íslendinga svo bágborið, að eg sem forseti félagsins gæti hindrunarlaust, ef eg að eins vildi, umhverft stefnu þess með því að nema burt greinina úr grundvallarlögunum, sem lögin sjálf segja að aldrei verði breytt. Trú safnaðanna, sem kirkjufélaginu tilheyra, á biblíuna sem guðs orð er miklu sterkari en svo, að eg eða nokkur annar af prestunum hér gæti, þótt vér vildum, komið slíku til leiðar. Slíkt harðstjórnarvald er með öllu óhugsanlegt að komið geti fyrir í nokkru sjálfstjórnanda kirkjufélagi. Og þótt eg væri nú dauðr og hr. Haraldr kœmi hingað vestr og vildi leita inngöngu í kirkjufélag vort hér, þá myndi hann reyna það, að með núveranda skilningi sínum á hinni óbreytilegu grein í grundvallarlögum félagsins yrði honum inngangan ekki eins auðveld og hann ímyndar sér.

Jón Bjarnason.

# Hornsteins-lagning

## Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg.

Snemma á þessu ári varð það að samþykkt í Fyrsta lúterska söfnuði í Winnipeg, að hann skyldi á því sama ári reisa sér nýja, vandaða og veglega kirkju á norðvestr-horni strætanna Nena og Bannatyne. Fimmtán manna nefnd, sem kjörin var til þess að standa fyrir kirkjubyggingar-fyrirtœkinu, réð sér byggingarmeistara, og eftir að hafa komið sér niðr á því í sambandi við hann, hvernig kirkjan skyldi verða bæði hið ytra og innra, auglýsti hún hina fyrirhuguðu húsgjörð og tók svo beztu boðum, sem fengust, frá múrgjörðarmönnum, trésmiðum, málurum o. s. frv., til að framkvæma verkið. Samkvæmt því er búizt við, að kirkjan muni kosta um 25 þúsundir dollara. Henni mun síðar verða lýst í ,,Sam.''

Fimmtudaginn 20. þessa mánaðar fór fram hornsteinslagningin í viðrvist fjölda fólks.

Sú athöfn byrjaði með því að sungin voru þrjú fyrstu vers af sálminum 425 í sálmabókinni (,,Sem fuglinn hlúir hreiðri að''); en seinustu orðin í þeim sálmsparti eru þessi:

,,Því hún er byggð á hornstein þann, sem heitir Jesús Kristr.''

Þar næst var lesið á víxl af presti safnaðarins og söfnuðinum:

Vor hjálp er nafn drottins,

*hans, sem gjörði himin og jörð.*

Hversu yndislegir eru þínir bústaðir, drottinn alls herjar!

*Mína sálu langar innilega eftir drottins forgarði.*

(Hans) grundvöllr hvílir á hinu heilaga fjalli.

*Drottinn elskar hlið Síons fram yfir alla bústaði Jakobs.*

Glaðr verð eg, þegar þeir segja við mig: Látum oss ganga í hús drottins.

*Fætr vorir eru (nú þegar) í þínum portum, Jerúsalem.*

Ef drottinn byggir ekki húsið, þá erviða smiðirnir til einskis.

*Ef drottinn verndar ekki staðinn, þá vaka verðirnir til ónýtis.*

Dýrð sé guði föður, syni og heilögum anda,

*svo sem var frá upphafi, er enn og verða mun um aldir alda. Amen.*

Síðan var biblíulestr:

Þá vaknaði Jakob af svefni sínum og mælti: Vissulega er drottinn á þessum stað, og eg vissi það ekki! Og ótta sló yfir hann, og hann sagði: Þessi staðr er óttalegr! Hér er guðs hús! Hér er hlið himinsins!

Og Jakob stóð snemma upp um morguninn og tók steininn, sem hann hafði haft undir höfðinu, og reisti hann upp til merkis og hellti viðsmjöri yfir hann. Og hann kallaði þennan stað Betel (guðs hús).

Og Jakob gjörði heit og mælti: Ef guð verðr með mér og varðveitir mig á þessari ferð, sem eg nú fer, og gefr mér brauð að eta og klæðir mig, og komi eg farsællega aftr heim í hús föður míns, þá skal drottinn vera minn guð; og þessi steinn, sem eg hefi upp reist til merkis, skal verða guðs hús.—1. Mós. 28, 16—21.

Þess vegna segir drottinn hinn alvaldi svo: Eg hefi lagt undirstöðustein á Síons fjalli, prófaðan stein, ágætan hornstein, fullkomlega skorðaðan. Hver sem við hann styðst, sá þarf ekki að óttast.—Esaj. 28, 16.

Þér eruð þess vegna ekki framar gestir og framandi, heldr meðborgarar hinna heilögu og heimamenn guðs, byggðir yfir grundvelli postulanna og spámannanna, hvers hornsteinn Jesús Kristr er, sem öll hin samtengda bygging vex á til heilags musteris í drottni, og sem þér einnig eruð byggðir á til bústaðar guðs í andanum.—Efes. 2, 19—22.

Næst voru þessar bœnir fram bornar:

Ó, herra guð, himneski faðir, þótt himnarnir rúmi þig ekki, þá er það þó vilji þinn að hafa hús á jörðu, þar sem bœn og lofgjörð í þínu nafni sé stöðugt fram borin. Lít því náðaraugum þínum til þessa staðar; og eins og þú lézt framgengt verða hinni guðrœkilegu ósk þjóns þíns Davíðs með því, er sonr hans Salómon reisti musterið í Jerúsalem, svo lát einnig þá ósk hjartna vorra ná að rætast, að vér fáum fullkomnað það verk, sem vér hér höfum byrjað,—fyrir Jesúm Krist drottin vorn. Amen.

Ó, herra Jesús Kristr, þú sonr hins lifanda guðs, sem ert hinn útvaldi og dýrmæti hyrningarsteinn og hinn óhagganlegi grundvöllr kirkju þinnar, — vér biðjum þig: Lát stein þann, sem vér leggjum hér í þínu nafni, vera fasta undirstöðu. Og eins og þú ert sjálfr upphaf og endir, svo vert þú einnig byrjan, áframhald og fullkomnan þess fyrirtœkis, sem vér höfum hafið hér þínu nafni til heiðrs og vegsemdar. Amen.

Ó, herra guð, sem býr hátign þinni ævaranda bústað í söfnuði þinna heilögu, — blessa musterisgjörð þessa og lát hana farsælast, og veit, að vér fáum einnig orðið upp byggðir sem lifandi steinar og gjörzt andlegt hús og eilíft musteri dýrðar þinnar, — fyrir Jesúm Krist drottin vorn, sem með þér og heil. anda lifir og ríkir einn, sannr guð, um aldir alda. Amen.

Þá var búið um hornsteininn á sínum stað eftir að í hann hafði verið látið í málmkassa það, sem í honum átti að vera, lýst yfir því, að hann—hyrningarsteinn Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg — væri nú lagðr í nafni guðs föður, sonar og heilags anda og um leið þrisvar á hann slegið með þar til gjörðri múrskeið úr silfri.

Því var svarað af söfnuðinum syngjanda með þríteknu *amen*.

Svo báru allir upphátt í einu fram drottinlega bœn, segjandi: Faðir vor, o.s.frv.

Þá las formaðr byggingarnefndarinnar, hr. Ólafr S. Þorgeirsson, upp skýrslu um þá hluti, er lagðir höfðu verið í hornsteininn; en hlutirnir voru: nýja testamentið á íslenzku; passíusálmar Hallgríms Pétrssonar; sálmabókin; barnasálmar Valdemars Briem; biblían öll á ensku; Sameiningin XVIII, 5 (Júlí 1903); Kennarinn VI, 8 (Ágúst 1903); Verði ljós! (Júlí 1903); Tíðindi frá síðasta ársþingi kirkjufélags vors; Aldamót síðustu (1902); Lögberg frá 7. Maí með lýsing á kirkjunni og myndum af henni; prentað blað sérstakt með lesmáli á ísl. um kirkjuna og myndum af henni, og annað samskonar blað á ensku; enn fremr skjal, þar sem á voru rituð nöfn allra núverandi embættismanna safnaðarins og félaga þeirra, er honum tilheyra (kvenfélagsins og bandalags unga fólksins), svo og kennara og bókavarða suunudagsskólans (24 að tölu , og loks mannanna allra í kirkjubyggingarnefndinni. Á því hinu sama skjali var þess og getið, að fyrsti vísir safnaðar þessa væri frá árinu 1878 og hefði þá verið nefndr Þrenningarsöfnuðr, en hið núveranda nafn sitt hefði söfnuðrinn borið síðan 1884, og enn fremr, að 1887 hefði söfnuðrinn komið sér upp kirkju (á suðaustr-horni strætanna Pacific Ave. og Nena) og haft hana til guðsþjónustufunda sinna ávallt síðan.

Síðan voru rœðuhöld. Þeir séra Friðrik J. Bergmann og séra Hans B. Thorgrímsen fluttu sína rœðuna hvor á ensku. Séra N. Steingrímr Þorláksson og séra Jón Bjarnason töluðu á íslenzku.

Að ending var sunginn sálmrinn nr. 420 („Vor guð er borg á bjargi traust") allr og séra H. B. Th. lýsti blessan yfir fólkinu.

Prestr safnafnaðarins stýrði samkomunni og bar fram bœnirnar, en hinir prestarnir lásu hver sinn biblíukafla. Frú Lára Bjarnason lagði hornsteininn, og var henni fengið það hlutverk af kirkjubyggingarnefndinni. Á hornsteininn er höggið: First Lutheran Church.—Icelandic.—A. D. 1903.

## Hátíðleg athöfn.

Fyrsta sunnudaginn, sem séra Björn B. Jónsson prédikaði hér í Vestrheimssöfnuði eftir að hann kom heim af kirkju-

þingi, fór fram, auk venjulegrar guðsþjónustu, hátíðleg og gleðileg athöfn, sem eg álít rétt að geta um opinberlega. Athöfnin var sú, að fermd voru hjón, sem gift voru fyrir nærri fjórum árum og voru búin að eignast tvo drengi. En þau höfðu enn ekki látið skíra þá og voru sjálf ófermd. Framangreindan sunnudag gengu þessi ungu hjón fram að altari drottins með sinn drenginn hvort á handleggnum og staðfestu skírnarsáttmála sinn, og létu svo skíra drengina á eftir. Þetta fagra og lofsverða dœmi finnst mér ætti að verða öðrum til íhugunar og eftirbreytni. Að ætlan minni ríkir allt of víða sá hugsunarháttr, að fólk kann því ekki vel að láta staðfesta sig eftir að það hefir náð fullorðinsaldri. En sú skammsýni og fásinna! Eins og maðr vaxi nokkurn tíma upp úr því að helga sig og líf sitt heilagri þrenning! — Guð gefi, að dœmi þetta verði mörgum hvöt til að feta sama veg og þessi ungu hjón gjörðu.

Sigbjörn S. Hofteig.

## Missíónar-ferðir.

6. Maí fór eg með C. N. brautinni vestr til Swan River að heimsœkja nokkra Íslendinga, sem fyrir skemmstu hafa numið þar land í hinum fagra og frjóva Swan River-dal; en langt er á milli byggða þeirra, um 20 mílur.

I hálfan mánuð ferðaðist eg um meðal Íslendinganna, í ágætis-yfirlæti, skírði nokkur börn (11 alls), en fimm sinnum héldum vér opinbera guðsþjónustu-samkomu. — Meðan eg dvaldi þar mynduðu Íslendingar söfnuð undir forustu Jóns Eggertssonar, í þeirri veru að tengjast kirkjufélaginu; og var áhugi þeirra fyrir kristindómi og íslenzkri kristindómsfrœðslu svo almennr, að nálega allt fullorðið fólk tók þátt í safnaðarstofnuninni. Í þetta skifti fermdi eg ekki unglinga. Tíminn var álitinn of stuttr til uppfrœðslu; en það var ráðið, að biðja kirkjufélagsstjórnina að sjá söfnuðinum fyrir prestsþjónustu að minnsta kosti einn eða tvo mánuði á komanda vetri.

Á austrleið—til Winnipegosis—staðnæmdist eg tvo daga hjá Grími Eyford í Ethelbert og skírði 3 börn þeirra hjóna.— Það er skaði, hve fjarri þessi hjón eru öllum öðrum Íslend-

ingum, svo áhugamikil sem þau eru um velferðarmál lútersku kirkjunnar og allt íslenzkt.

Í Winnipegosis fögnuðu mér vinir, og beið eg byrjar í tvo daga meðal þeirra, prédikaði þá og skírði eitt barn. — Síðan fékk eg far norðr til Red Deer-tanga og hét ferðinni á fund Búa Jónssonar, því mér var áðr kunnugt um, hve innilegan hug þau hjón bera til kirkju og kristindóms. En þegar þangað kom, var Búi og meiri hluti bœnda farinn í sumarver norðr með vatni, sem var mér hið mesta mein, því undir slíkum atvikum varð ekki komið við safnaðarmyndun. Tangabúar tóku mér forkunnar-vel, en mest ferðaðist eg þó á vegum Ingvars Ólafssonar; — hann er orðinn svo vanr að vera forkólfr framkvæmda þar vestra. Það var svo að segja almenn ósk þeirra, sem eg átti tal við, að prestr dveldi hjá þeim tímakorn— helzt að vetrarlagi, þegar menn væri almennt heima og yfirferð væri góð — til þess að starfa að safnaðar-fyrirkomulagi, frœða börn og unglinga og ferma þá. Í þetta sinni hafði eg stutta viðdvöl; — skírði 10 börn og prédikaði að eins tvisvar við guðsþjónustu-samkomur.

Á austrleið fór eg af lestinni í Gladstone, og fékk þegar keyrslu upp til Big Grass, vitanlega fyrst og fremst á fund Jóns Austmanns. Þegar í stað fékk hann mér stjúpson sinn með eyki til þess að ferðast um byggðina; annars var það, ,,eins og fyrra daginn'', að Big Grass-búar kepptust hver við annan að greiða fyrir mér og málefni mínu. Á trínitatissunnudag héldum vér guðsþjónustu-samkomu í húsi Kristjáns Jónssonar. Skutum svo á fundi undir forustu Jóns Árnasonar. Mynduðu þeir söfnuð með meira hluta búenda, viðtóku safnaðarlög, völdu safnaðarfulltrúa—forseta Vigfús Þorsteinsson— og ákváðu að tengjast kirkjufélaginu íslenzka.

Þegar eg hafði lokið þessari ferð minni um Big Grass, sem var sönn skemmtiferð, fór eg sem leið lá til Winnipeg.

Og þar með var lokið ársvist minni í þjónustu kirkjufélagsins íslenzka. — Hefi eg á því ári heimsótt flestar íslenzkar nýlendur í Manitoba, Assiniboia og Alberta o. fl., prédikað 70 sinnum á opinberum guðsþjónustu-samkomum, skírt 80 börn, fermt 26 unglinga, og gjört fleiri prestsverk, sem fyrir féllu, — nema giftingar. — En vegna þess, hve víða eg hefi farið, hefi eg ekki getað sinnt sunnudagsskólum og íslenzkri kristindómsfrœðslu, eins og eg hefði feginn viljað, — en einmitt þetta atriði er þó, ef til vill, aðal-starf prestsins og hið lang-þýðingarmesta í hinu íslenzka fríkirkjufélagi Vestr-Ísl.

**Pétr Hjálmsson.**

Skrifari kirkjufélagsins, séra Björn B. Jónsson, skýrði frá því á ársþingi þess hinu síðasta, að hann gæti ekki þá lagt fram skýrslu um fólkstal í söfnuðunum, eignir safnaðanna, sunnudagsskólahald o. s. frv. Orsökin var sú, að þrátt fyrir ítrekaða áskoran hafði hann ekki fengið upplýsingar þessu viðvíkjandi frá sumum söfnuðunum. Búizt var þó við, að skýrsla sú gæti orðið til áðr en prentan gjörðabókar kirkjuþingsins væri lokið og yrði svo prentuð aftast í þeim ritlingi. En er til kom, var horfið frá þeirri hugsan, því skrifara vantar enn nœgileg gögn frá ýmsum safnaðanna til þess að svo stöddu að geta búið út fullnœgjandi aðal-skýrslu.

Nú er því skorað á embættismenn safnaðanna að annast framvegis betr skýrslur sínar en að undanförnu. Skýrslur yfir árið 1903 eiga að sendast kirkjufélagsskrifaranum undir eins eftir nýár næsta. En í haust eiga söfnuðirnir fyrir 1. Nóv. að láta hann vita um embættismenn sína. Þá sendir hann þeim tafarlaust prentuð eyðublöð undir skýrslurnar.

Gjöri nú allir söfnuðirnir svo vel, að taka þetta til greina. Það má með engu móti bregðast.

---

Tíðindi frá kirkjuþinginu í Argyle voru alprentuð snemma í þessum mánuði og hafa eins og til stóð verið send til sölu þeim öllum, er á þinginu voru. Verð ritlingsins er 15. ct., og sé það sent annaðhvort forseta eða skrifara kirkjufélagsins.

---

,,Kristileg safnaðar-starfsemi í Reykjavík'' heitir félag eitt, sem snemma á ári þessu hefir orðið til í höfuðstað Íslands. Markmið þess er að glœða kristilegt trúarlíf meðal safnaðarfólks þar í nánu sambandi við prest dómkirkjunnar. Aðal-forgöngumaðr þess fyrirtœkis er hr. Sigrbjörn Á. Gíslason, guðfrœðiskandídat, erindsreki ,,innri missíónarinnar'' í Danmörk. En forseti félagsins er dómkirkjuprestrinn, séra H. Jóhann Þorkelsson. Fyrirtœki þetta er nytsamlegt og lofsvert og ætti að fá stuðning frá öllum guðfrœðingunum í Reykjavík, sem bera velferð kristninnar fyrir brjósti.

Ýmsa ritlinga hefir hr. Sigrbjörn gefið út í þeim tilgangi að hlynna að hinu góða málefni kristindómsins. Og skulu þeir hér nafngreindir: ,,Um barna uppeldi'' eftir Otto Funcke; ,,Heilagleiki guðs barna'' eftir E. Blume; ,,Jólagjöfin'', þrjár jólasögur; ,,Prestrinn í Skógarþorpi''; ,,Heimatrúboð''. Seinasti ritlingrinn er sérprentan úr ,,Fríkirkjunni'', tímariti því, er séra Lárus Halldórsson hefir gefið út; hinir ritlingarnir eru af hr. S. Á. G. þýddir úr dönsku eða norsku. —

Nokkra útbreiðslu ætti smárit þessi öll að geta fengið meðal Vestr-Íslendinga, enda verða þau sennilega öll til sölu í bókaverzlan hr. H. S. Bardals hér í Winnipeg.

---

Nýja testamentið með myndum (50 alls) er nýkomið út á íslenzku í London á Englandi. Sá, sem fyrir því útgáfufyrirtœki hefir gengizt, er hr. Fred. H. Jones, enskr maðr, sem vinnr að útbreiðslu guðs orðs, hefir dvalið á Íslandi í fimm ár, lært íslenzka tungu og kynnt sér ástœður fólks vors í trúarefnum. Þetta er handhœg vasaútgáfa af nýja testamentinu. Prentunarfrágangrinn góðr; myndirnar, sem sumar eru marglitar, eftir fræga listamenn; þær eru teknar úr *The Pictorial New Testament*, sem *Scripture Gift Mission* í London hefir gefið út. Texti nýja testamentis útgáfunnar íslenzku (brezka biblíufélagsins) frá 1866 er notaðr nálega án breytinga. Með myndunum í bókinni teljast uppdrættir á tveim spjöldum — annar af landinu helga, hinn af löndum þeim öllum, er Páll postuli ferðaðist um í kristniboðserindum. Þetta nýja testament ætti að fljúga út meðal fólks vors hér, því það er mjög eigulegt og ódýrt. Það verðr væntanlega til sölu hjá hr. Halldóri S. Bardal innan skamms. En verð þess hér getum vér ekki ákveðið að svo stöddu. Síðar mun það verða gjört almenningi kunnugt hér í blaðinu um leið og vér lýsum bókinni nákvæmar.

---

Eitt helzta málið, sem haft var til umrœðu í sumar á *sýnódus* í Reykjavík, var: „hluttaka íslenzku kirkjunnar í trúboði meðal heiðingja". Séra Friðrik Hallgrímsson, hinn væntanlegi prestr Argyle-safnaða, flutti inngangsrœðuna; skýrði hann þar stuttlega frá kristniboðinu í heiðingjalöndunum, og hvatti til þess, að íslenzka kirkjan yrði sem fyrst með í þeirri starfsemi. Engin mótmælarödd lét til sín heyra. Og þriggja manna nefnd (Hallgrímr biskup Sveinsson, séra Jón Helgason og séra Jens Pálsson) var sett til þess að hafa málið með höndum og greiða fyrir því innan þjóðkirkjunnar á Íslandi.



„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið „Kennarinn" fylgir með „Sam." í hverjum mánuði. Ritstjóri „Kennarans" er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.— Skrifstofa „Sam.": 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—
Útgáfunefnd: JÓN BJARNASON, (ritstj.), FRIÐRIK J. BERGMANN, ÓLAFR S. ÞORGEIRSSON, N. STEINGRÍMR ÞORLÁKSSON, PÉTR HJÁLMSSON, WILHELM H. PAULSON, HALLDÓR S. BARDAL.

Prentsmiðja Lögbergs.— Winnipeg.